


IV. Winnipeg, Man. Nr. 6.

## SMÁVEGIS.

Vilja ekki kristnu kennifeðurnir segja oss, hvert sé hið sanna gildi sköpunarsögunnar? Vér vitum að hún er ekki sönn—að hún mótsegir sjálfri sér. Þær eru tvær sköpunarsögurnar, í 1. og 2. kap. Móses. Í fyrri frásögunni eru skepnurnar og fuglarnir látnir vera skapaðir á undan manninum. Í seinni frásögunni er maðurinn skapaður á undan fuglum og öðrum dýrum. Í fyrri frásögunni eru fuglarnir gerðir af vatni, en í seinni frásögunni eru þeir gerðir af jörðu. Í fyrri frásögunni voru þau sköpuð tvö í einu Adam og Eva en í seinni frásögunni er Adam fyrst skapaður, og síðan skepnurnar og fuglarnir, og svo er Eva loks gerð af einu rifi Adams. Þessar sögur eru allar miklu eldri en Móesesbækurnar.

Persar segja að guð hafi skapað heiminn á 6 dögum, og mann einn er hann kallaði Adam og konu að nafni Evu og hafi hann svo hvílt sig. Sögur Etrúsca, Babylonsmanna, Rómverja og Kaldea eru þessu mjög áþekkar, og egyfsku sögurnar sömuleiðis. Persar, Grikkir, Egyftar, Kínverjar og Hindúar hafa allir söguna um aldingarðinn Eden og lífsins tré. Persar, Babylonsmenn og íbúar Suður-Indlands hafa allir sögurnar um syndaflóðið og höggorminn. Kínverjar segja að syndin hafi komið inn í heiminn fyrir óhlýðni konunnar. Jafnvel íbúar eyjarinnar Tahiti í Kyrrahafinu segja, að maðurinn hafi verið skapaður af jörðu og hin fyrsta kona af einu beini hans. Allar þessar sögur eru viðlíka sannar, og allir höfundar þeirra voru álíka innblásnir.

Hugmyndin sem liggur til grundvallar fyrir endurlausninni, er tekin frá villimannastigi fornþjóðanna, þegar menn gátu ekki gert sér guðina hliðholla eður vinveitta með öðru en því, að blóta þeim dýrum eða mönnum. Guðirnir voru þá sólgnir í blóð, og þó einkum mannablóð. En nú er hugmynd þessi meira og meira að hverfa og jafnvel orðin að þjóðsögu allvíða. Eftir því sem maðurinn mentast og verður mannúðlegri, því síður þola þessi þjóðsagna-afkvæmi hið hreina loft og veslast því út af. Mannkynið stefnir nú á dögum til kærleikans og mannúðarinnar, en ekki til haturs og heiftar; að græða sár, en ekki að úthella blóði. Hefðu menn ekki erft þessa fórnar og endurlausnarhugmynd frá fyrri tímum, þá hefði mönnum nú á dögum aldrei komið til hugar, að þeir yrðu betri menn eða sælli fyrir það, að guð einhver var á tré negldur. Og ekki mundi heldur nokkrum manni koma það til hugar, nema þá mannfýlum og morðingjum, að höfundur og skapari tilverunnar gæti reiðst svo voðalega yfir brotum og brestum barna sinna, að það væri ómögulegt að honum sefaðist reiðin, fyr en hann hefði séð hefndina ritaða í blóðrúnum, — fyr en hann hefði slátrað eigin syni sínum.

* * *

Sagan um hina seinfæru og þyrnumstráðu framrás guðfræðinnar frá lægra og á æðra stig, er um leið sagan um það, hvernig menn stöðugt hafa afklætt guðina mannlegum eiginleikum. Einu mannlega einkenninu á eftir öðru hefir verið bolað út úr guðshugmyndinni. Og þeim einkennum sem eftir hafa orðið, hefir verið breytt svo, að þau urðu æ þýðari, háleitari og mistu meira og meira af hinu mannlega og ófullkomna, sem við þau loddi. Þessar breytingar hafa orðið samfora því, er maðurinn hefir sótt fram til æðri og háleitari hugsjóna, og þannig sjáum vér, að ástríður þær og ófullkomnun guðanna, sem menn hafa felt í burtu, eru einkenni villimannastigs þess, sem menn nú hafa yfirstigið. Hið vilta mannætueinkenni í guðshugmyndinni á aldrei langan aldur, þegar þjóðin, sem trúir á þennan guð, er hætt að eta mannakjöt, og brögð og svik og grimd hætta menn að tileinka guðunum þegar menn fara að telja það manninum til gildis að vera sannorður, hreinskilinn og miskunsamur.

* * *

Miss Mary A. Proctor, dóttir hins nafnfræga stjörnufræðings Richard A. Proctor, flutti fyrirlestur í vetur og lýsti því þá yfir, að eftir sextíu miljónir ára mundi alt vatn af jörðunni gufað upp út í geyminn og yrði mönnum þá ómögulegt að lifa á jörðunni.

En nú sjáum vér, að af yfirborði jarðar er $\frac{1}{4}$ land og $\frac{3}{4}$ sjór, og getum því ætlað af því, að $\frac{1}{4}$ útgufunar þessarar sé þegar lokið. En þá sjáum vér líka, að jörðin hlýtur að hafa verið til að minnsta kosti um tuttugu miljónir ára. En óvíst er hvort fræðikona þessi hefir tekið eftir því, að með þessu eyðileggur hún sögusögn biblíunnar um aldur heimsins gjörsamlega, því að eftir biblíunni á jörðin að vera tæpra 6000 ára gömul.

Miss Proctor er fræg vísindakona og heldur fyrirlestra að tilhlutun mentamálastjórnarinnar í Bandaríkjunum. Fer þetta nærri því sem þeir telja aldur jarðar sem fróðastir eru um jarðmyndun og jarðlög. Þeir telja jörðina frá 20,000,000 til 200,000,000 ára gamla.

---

## KALDEUMENN HINIR FORNU.

Framhald

### ÞJÓÐSAGNIR.

Eðlileg afleiðing af því, að mennirnir í fyrstunni skildu ekki hvernig stóð á því, að vindurinn fór að blása, að sólin sýndist líða yfir himinhvolfið, að regnið dundi niður úr skýjunum og þrumufleygurinn sentist um loftið, var sú, að þetta var alt gjört að máttugum verum, eða guðum, sem menn ákölluðu og dýrkuðu og af guðum þessum mynduðust svo ótal sögur. Þeir voru þarna efst uppi í fornöldinni. Menn höfðu af þeim nokkurskonar skuggamyndir, tröllslegar, óskiljanlegar, yfirnáttúrlegar. Þeir gengu þar um himnana stórum skrefum í einhverri þoku, í gullnum skýflóka. En jafnhliða þeim komu og fram aðrar myndir og mynduðu aðrar sögur af verum, er skyldari voru og nær stóðu mönnunum, það voru sögur af hálfguðunum,— feðrum þjóðflokkanna, stofnendum þjóðanna, félögum guðanna og gyðjanna, af mönnum, sem voru elskaðir öðrum fremur af guðunum og dýrkaðir sem guðir af mönnum. Og þegar svo sögurnar voru sagðar af þeim þúsundir ára eftir dauða þeirra, þá fóru menn að villast á þeim og guðunum, og sögðu af þeim sögur, sem áður höfðu verið sagðar af guðunum. Þegar til dæmis sólguðinn átti að berjast á himnum við anda eður guði myrkranna eður kuldans og frostsins, þá var sú saga seinna sögð um einhvern mikin mann; þessi orusta sólarguðsins var flutt ofan á jörðina. Einhver hálfguð var settur í stað sólarguðsins og látinn heyja orustuna við allra handa óvætti og svo var söguefni þessu snúið við á allar lundir. Sagan kom fram í ótal myndum. Ein af

sögum þessum er gríska sagan um Odysseif er hann kemur heim til konu sinnar Penelope og berst við biðla hennar, sem eru guðir myrkursins. Þá eru sögurnar um Þór og bardaga hans við jötna af sömu rót runnar, og má þannig telja upp sögur í það óendanlega.

Þegar menn fóru að geta skrifað, fóru menn strax að skrifa upp sögur þessar, sem áður höfðu gengið sem sögusagnir frá föður til sonar. Einkum voru það prestarnir, sem settir voru til að gæta þessa og meira að segja höfðu starf það á hendi, að fræða menn um það, og af sögum þessum og goðsögunum mynduðust svo biblíur þjóðanna, því að fyrir framburð og fylgi prestanna, sem aldrei hafa viljað láta efa orð sín, voru sögur þessar allar teknar sem bókstaflegur heilagur sannleiki.

Ein af þessum gömlu sögum er sagan um syndaflóðið, sem ómögulega getur verið yngri en frá því um 2000 f. Kr. og að öllum líkindum miklu eldri.

Það fyrsta sem menn vissu um sögu þessa var það, að hún fannst í ritum Berosusar Kaldeaprins, er lifði 300 árum f. Krist. Hafði hann átt að skrifa hana upp eftir gömlum ritum, en enginn vissi hvar þau voru eða hvað þau höfðu inni að halda. Sagan hjá Berosus var á þessa leið: Fyrst segir frá flóði er átti að hafa komið á dögum hins seinasta af 10 fornkonungum er tóku að ríkja 259,000 árum fyrir komu mannfiskjarins Oannes, sem áður hefir verið skýrt frá. Berosus segir svo, að Xisuthros, hinn seinasti af konungum þessum, hafi dreymt draum einn. Í draumnum kemur guð til hans og segir honum, að á ákveðnum degi skuli allir menn á jörðinni tortímast í vatnsflóði nokkru. Segir guð honum ennfremur, að hann skuli taka öll hin helgu rit og grafa þau niður í borg sólguðsins, Sippar, síðan skuli hann byggja skip eitt, flytja í það nægan mat og drykk og ganga svo í það með konu og börnum, heimilisfólki sínu og sínum bestu vinum; einnig skuli hann taka með sér dýr, fugla og ferfætt dýr af öllum tegundum. Xisuthros gjörir eins og guð segir honum. Og þegar flóðið tók að réna á jörðinni, á hinum þriðja degi eftir að hætti að rigna sendir hann út fugla nokkra til þess að vita hvort þeir myndu land finna. En fuglarnir fundu hvorki fæðu né nokkurn blett til an hvíla sig á og snéru því aftur til skipsins. Nokkrum dögum seinna sendir Xisuthros aftur út fuglana. En þegar þeir koma aftur til skipsins, eru fætur þeirra leirugar. Í þriðja sinni sendir hann út fugla, en þá koma þeir ekki aftur. Þá vissi Xisuthros að flóðinu hafði létt af landinu. Opnaði Xisuthros þá hlera á skipinu og sá, að skipið var strandað á fjalli einu. Fór hann þá út úr skipinu með konu sinni og dóttur og skipstjórnara, bygði

þar altari og flutti guðunum fórnir. En að því búnu höfðu guðirnir hann burtu með sér. Og þegar félagar hans fóru að leita hans, þá heyrðu þeir rödd af himni, er sagði, að guðirnir hefðu haft hann með sér að lifa hjá sér um alla eilífð, og væru það laun fyrir guðhræðslu hans og réttlæti. Svo bauð röddin þeim að snúa aftur til Babylonar, grafa upp aftur hin helgu rit og gera þau mönnum kunnug. Þessu boði hlýddu þeir, snéru aftur, bygðu margar borgir og reistu upp Babylon að nýju.

Þetta þótti mönnum nú ákaflega merkileg saga, en þó var það að henni, að enginn vissi hver eldri var, þessi eða sagan um syndaflóðið í ritningunni. Það mátti alveg eins segja að saga þessi væri tekin úr ritningunni, eins og að segja að saga ritningarinnar væri tekin eftir þessari. Líkurnar voru jafnmiklar á báðar hliðar. En þá var það að Smith (enskur) fann á leirtöflubroti á gripasafninu í London part af sögunni um syndaflóðið. Leirtöflur þessar höfðu fundist í eldgömlum borgarrústum í Euphratsdalnum og verið fluttar þaðan til London. Á töflunni sem hann rakst á, stóð þetta: "Á fjallinu Nizir stóð skipið kyrt. Tók ég þá dúfu og lét hana fljúga. Dúfan flaug fram og aftur, en er hún fékk ekki stað að hvílast á snéri hún aftur til skipsins."

Þegar Smith fann þetta, þá fór hann að verða forvitinn og fór að leita. Leitaði hann í töflum og töflubrotum í þúsundatali og fann fleiri brot af sögunni. Sá hann þá að syndaflóðssagan var að eins kafli úr sögu af æfagömlum fornkonungi í Erech. Var saga þessi í 12 bókum, eða á 12 töflum. Konungur þessi var svo gamall, að hann var skoðaður sem hálfguð.

Izdubar þessi, sem er söguhetjan, átti að vera afkomandi Hasisadra, sem er sami maðurinn og Berosus kallar Xisuthros.

Því miður hefir fyrsta taflan ekki fundist og að eins brot af hinni annari. En á brotinu sem eftir er, sést að kúgun og óöld hefir ríkt í borginni Ereach. Fyrir borg þeirri hafði ráðið konungur einn mikill, Dumusi, sonur guðsins Ea, og var hann kvæntur gyðjunni Ishtar (ástagyðjunni).

Sjötta taflan segir frá tign og virðingum Izdubars og frá því er ástagyðjan Ishtar verður ástfangin í honum og leitar ásta hans. Hún segir: "Vertu bóndi minn Izdubar, en ég skal vera kona þín og heita þér trú minni. Þú skalt keyra í gullvagni með dýrindis steinum. Æfi þín skal verða sigurför. Konungar, konungasynir og höfðingjar skulu leggjast undir veldi þitt og kyssa fætur þínar. Þeir skulu færa þér skatta úr fjalllendunum og dölunum. Hjarðir

þínar skulu margfaldast, múlasnar þínir vera fljótir og uxar þínir sterkir. Enginn skal vera jafningi þinn."

En svo var Izdubar drembilátur, að hann hafnaði ástum gyðjunnar. Hann bríxlaði henni með því, að hún elskaði Dumuzi og aðra á undan sér. Þá reiddist Ishtar stórlega, og brá sér upp til himna á fund Anu föður síns, og segir :

"Faðir minn. Izdubar hefir svívirt mig. Hann metur einskis fegurð mína og hafnar ástum mínum." Hún heimtar því að Anu rétti við hluta sinn, og skapar Anu þá naut eitt mikið og sendir það á móti borgarmönnum í Erech. En Izdubar og fóstbræður hans fara á móti nautinu og vinna það. Eabani þrífur annari hendi um hala nautsins en annari í horn þess, en Izdubar ræður því bana. Tóku þeir svo hjarta þess og fórnuðu því sólguðinum. Þá gengur Ishtar fram á borgarmúra og formælir Izdubar. Fylgja henni þernur hennar og gráta þær hátt og mikinn yfir dauða hins guðdómlega nauts. En Izdubar kallar saman menn sína og býður þeim að taka líkama nautsins og flytja hann á altari sólguðsins sem fórn til Shamash. Síðan þvoðu þeir hendur sínar og snéru heim til Erech og héldu sigurveislu mikla.

En í stað þess að reiði gyðjunnar sefaðist, þá varð þetta til þess að æsa hana enn meira. Fær hún nú móður sína, gyðjuna Anatu, í fylgi með sér og slær hún Izdubar sýki þungri, nokkurs konar holdsveiki, en deyðir Eabani. Izdubar verður hryggur mjög við dauða fóstbróður síns, styrkur hans hvarf frá honum og auk þess leið hann sárar kvalir. Hann dreymdi vonda drauma, og nú var enginn sem gæti huggað hann. Loks réð hann það af að leita á fund forföður síns Hasisadra, er bjó langt í burtu við "ósa fljótanna," og var ódauðlegur, og spyrja hann hvernig hann gæti læknast og fengið styrk sinn aftur. Hann leggur þá einn á stað, og kemur í ókunnugt land. Þar finnur hann verur tröllstórar, hálfa menn og hálfa sporðdreka. Fætur þeirra voru í jörðu niðri, en höfuð þeirra tók við hlið himnanna. Þeir voru gæzluverðir sólarinnar og höfðu gát á uppgöngu sólar og niðurgöngu. Er þeir sáu hann sögðu þeir hver við annan : "Hver er þessi sem kemur til vor með merki um reiði guðanna á líkama sínum ?" Izdubar segir þeim hver hann sé og skýrir þeim frá erindi sínu, en þeir vísa honum leið til bústaða hinna sælu við ósa fljótanna, og sögðu honum að vegurinn væri langur, en torfærur nógar. Leggur hann þá aftur á stað yfir sanda mikla og gróðurlausa, og heldur einlægt áfram án þess að líta nokkru sinni um öxl sér, þangað til hann kemur í fagurt rjóður við sjáfarströndu. Voru ávextir trjánna þar gimsteinar einir og gættu rjóðursins meyj-

ar tvær, Siduri og Sabitu. Litu þær óhýrum augum á komumann þenna, með merki guðsins á líkama sínum og læstu dyrum fyrir honum.

Nú stóð Izdubar á ströndu dauðans vatna. Eru vötn þessi bæði breið og djúp og skilja land hinna lifendu frá bústöðum hinna sælu og ódauðlegu. Þar hittir hann ferjumanninn Urubel og skýrir honum frá högum sínum og talar mikið um vin sinn, er hann hafi elskað en orðið að sjá á bak. Lætur Urubel hann fara út á skip sitt. Sigldu þeir í einn mánuð og fimtán daga á þessu dauðans hafi, uns þeir komu að hinu fjarlæga landi við ósa vatnanna. Þar hittir Izdubar loksins hinn fræga forföður sinn og biður hann um hjálp og ráðlegging. En verður þá undir eins forvitinn að fá að vita, hvernig því hafi verið varið, að hann skyldi hafa verið fluttur lifandi af jörðunni í félag guðanna.

Hasisadra svarar öllum spurningum ættmanns síns og segir honum svo hvernig hann skuli losast við bölvun þá, sem guðirnir höfðu lagt á hann. Síðan snýr Hasisadra sér að Urubel og segir : "Urubel, maður sá, sem þú hefir hingað flutt, er kaunum þakinn og sjúkdómur hans hefir tekið frá honum styrk hans. Tak þú hann með þér Urubel og hreinsa hann í vötnunum svo að sjúkdómur hans snúist í fegurð, svo að hann geti varpað af sér sjúkdómnum og vötnin geti flutt hann burtu,svo að hold hans verði hraust og hárið komi aftur á höfuð honum og liðist í lokkum niður um klæði hans, svo að hann megi fara og snúa aftur heim til sín.

Þegar alt þetta var gert sem Hasisadra skipaði fyrir, fékk Izdubar heilsuna aftur og flutti Urubel hann aftur til lands hinna lifendu og fylgdi honum alla leið heim til Ereach. En er þeir nálguðust borgina, tóku tárin að renna af hvörmum hetjunnar af sorg yfir vini sínum látnum og tók hann þá að syngja um hann sorgarljóð og hætti ekki fyrri en guðinn Ea sá aumur á honum og sendi son sinn. Meridug, til þess að flytja sálu Eabani úr heimi skugganna inn á land hinna sælu, að hann mætti lifa þar að eilífu ásamt hinum fornu köppum, hvílast á skrautlegum legubekkjum og drekka tært vatn úr hinum eilífu lindum.

Þetta þykja nú máske orðalengingar, en seinna mun það sýnt verða, að það var nauðsynlegt að sleppa ekki úr sögu þessari.

En nú kemur aðalatriðið, sagan um syndaflóðið, sagan sem Hasisadra sagði ættmanni sínum er þeir fundust, sagan sem Berosus Kaldeuprestur segir um Xisuthros, sagan sem sögð er í fyrstu bók Mósesar, sagan sem trúfræðingarnir hafa ekki skilið en tekið

sem bókstaflega frásögu, og guðdómlega opinberaða höfundi Mósesbókanna.

Ég hefi alt til þessa tekið að eins ágrip af sögum þessum um Izdrubar af því að þær voru nauðsynlegar til að skilja hvernig þetta er orðið til, og hvernig stendur á syndaflóðssögunni, en syndaflóðssagan sjálf er svo skír og merkileg, að ég tek hana orðrétta.

Hasisadra byrjar söguna þannig:

"Ég skal skýra þér frá því, Isdubar, hvernig ég frelsaðist frá flóðinu og gjöra þér kunna ráðstöfun guðanna. Þú þekkir Surippak borgina við Euphrats-fljót. Sú borg var gömul orðin þegar hjörtu guðanna hrærðust svo, að þeir réðu það af að láta flóðið koma allir saman, faðirinn Anu, ráðgjafi þeirra hinn herskái Bel, hásætisberinn Ninib og foringinn Ennugi. Með þeim var og drottinn hinnar órannsakanlegu speki, guðinn Ea, og sagði hann mér frá ráðum þeirra. "Hlusta þú", sagði hann, "og tak þú eftir, maður frá Surippak, sonur Ubaratutu, gakk út af húsi þínu og smíðaðu skip eitt. Þeir (guðirnir) vilja eyðileggja alt líf, en þú skalt varðveita það og flytja á skip þitt lifandi skepnur af hverri tegund. Skipið, sem þú skalt smíða, skaltu láta vera.... langt og .... á breidd og hæð*) og þilfar skaltu gjöra yfir skipið". Þegar ég heyrði þetta mælti ég til Ea, drottins míns. "Ef að ég smíða skip þetta, sem þú segir mér, ó! drottinn, þá mun lýðurinn og öldungarnir hlægja að mér". En Ea opnaði varir sínar aftur og mælti til þjóns síns: "Menn hafa gert uppreist á móti mér og ég ætla að dæma þá, háa sem lága. En þú skalt loka dyrum skipsins, þegar tíminn kemur og ég segi þér. Svo skaltu fara inn í skipið og flytja þangað kornforða þinn, allar eigur þínar, ættfólk þitt, þjóna þína og þjónustukonur og hið næsta skyldfólk þitt. Nautgripina úr högunum og villidýrin af mörkinni skal ég senda þér sjálfur, svo að skepnur þessar megi vera óhultar innan dyra þinna". Svo bygði ég skipið og bjó það út með byrgðum af mat og drykk; ég hólfaði það í sundur að innan í .... hólf**). Ég gætti að rifunum og fylti þær upp. Ég helti biki yfir itri og innri hlið skipsins. Alt sem ég átti flutti ég þangað og kom því fyrir í skipinu; alt sem ég átti af gulli og silfri; alt sem ég átti af lifandi skepnum af öllum tegundum; alla þjóna mína, allar þjónustukonur, nautgripina, villidýrin og mína nánustu vini. Þegar svo Shamash (sólguð) lét tímann koma, þá heyrði ég röddu er

---

*) Tölurnar eru máðar svo ekki er hægt að lesa úr þeim.

**) Máð talan.

sagði við mig: "Þetta kvöld munu himnarnir hella niður regni og eyðileggingu, far þú því í skip þitt og loka dyrunum. Hinn ákveðni tími er kominn." Mælti röddin þetta kvöld hellist regn af himni og eyðileggur alt. Stórlega óttaðist ég það kvöld, á degi þeim er ég átti að byrja ferð mína. Ég var ákaflega hræddur. Þó fór ég inn í skipið og lokaði dyrunum á eftir mér, lokaði alveg skipinu. Og ég fól skipið leiðsögumanninum með öllum þess farmi. — Þá reis upp úr djúpi himnanna ský eitt svart og mikið, og Raman þrumaði í miðju skýinu, en Nebo og Nergal mættu hvor öðrum, og hásætisberendurnir gengu yfir fjöll og dali. Hinn mikli drepsóttar guð slepti hvirfilbiljunum. Ninib lét í sífellu skurðina flóa yfir bakka sína. Annunaki fluttu flóðin upp úr djúpum jarðar, sem skalf og nötraði í ósköpum þessum. Vötnin Ramans risu sem veggur til himins upp; birtan varð að myrkri. Sturlun og eyðilegging fylti jörðina. Bróðir leit eigi eftir bróður, enginn hugsaði um annan. Á himnunum uppi urðu sjálfir guðirnir óttaslegnir. Þeir leituðu hælis hjá Anu í hinum hæsta himni; eins og hundur í bóli sínu kiprar sig saman, eins hnöppuðust guðirnir við grindur himinsins. Ishtar hrópar í sorg sinni: "Sjá, alt er orðið að leðju og leir eins og ég sagði guðunum fyrir. Ég spáði fyrir um þessar ófarir og eyðileggingu á skepnum mínum — mönnunum. En ég lét þá ekki fæðast í þeim tilgangi að þeir skyldu fylla upp sjóinn og verða fiskunum að bráð." Svo tóku guðirnir að gráta með henni og sátu þar harmandi saman. Í sex daga og sjö nætur ríkti vindurinn, flóðið og stormurinn; en í dögun, hinn sjöunda dag, lækkaði óveðrið; vötnin lækkuðu nú ofsa sinn; þau höfðu barist sem ógnaflokkur óvina. Sjórinn hörfaði til baka, en storminum og flóðinu linti. Ég stýrði skipinu um sjóinn, harmandi yfir því að hýbýli manna væru leðju þakin. Líkin flutu um sem trjábútar. Ég opnaði hlera einn, og þegar dagsljósið skein í andlit mitt þá skalf ég, settist niður og grét. Ég stýrði skipinu yfir löndin, sem nú voru ógurlegt haf. Þá reis landblettur upp úr hafinu. Skipið stefndi á landið Nizir. Fjallið á landinu Nizir hélt skipinu föstu og slepti því ekki. Þannig var það á hinum fyrsta og öðrum degi, á hinum þriðja og fjórða og sömuleiðis á hinum fimta og sjötta degi. Í dögun hinn 7. dag tók ég dúfu, og sendi hana út. En hún fann ekki hvíldarstað fæti sínum, og hvarf til mín aftur. Þá tók ég svölu og sendi hana út. Svalan flaug fram og aftur en fann engan hvíldarstað og sneri aftur. Þá tók ég hrafn og sendi hann út. Hrafninn flaug burtu og þegur hann sá, að vötnin höfðu rénað, kom hann nær aftur og óð gætilega í vatninu en kom þó ekki til mín. Þá lét ég út öll dýrin mót hinum fjór-

um vindum himins, og bar fram fórnir. Ég reisti altari á hæsta tindi fjallsins, setti á það hin helgu ker sjö og sjö, stráði undir þau reirleggjum, sedrusviði og sætum jurtum. Guðirnir fundu ilm; guðirnir fundu sætan ilm. Eins og flugur þyrptust þeir utan um fórnina. Og þegar gyðjan Ishtar kom, þá spenti hún upp í hæðunum boga föður síns, Anu, og sagði: "Ég sver það við menið á hálsi mér, að ég skal minnast þessara daga, aldrei skulu þeir líða mér úr minni. Komi guðirnir allir að altari þessu. Bel er sá eini, sem ekki má koma, því að hann stjórnaði ekki reiði sinni, var valdur að flóðinu og ofurseldi menn mína eyðileggingu". Þegar Bel svo kom nær og sá skipið, varð hann forviða og hjarta hans fyltist reiði við guðina og anda himins. "Engin sál skal undan sleppa", hrópaði hann; "ekki einn einasti maður skal lifandi sleppa frá eyðileggingu þessari". Þá opnaði guðinn Ninit varir sínar, ávarpaði hinn herskáa Bel og mælti: "Hver hefir getað gjört þetta annað en Ea?" Þá opnaði Ea varir sínar, ávarpaði hinn herskáa Bel og mælti: "Þú ert hinn mikli foringi guðanna. En hví hefir þú verið svo kærulaus að sleppa flóðinu yfir jörðina? Látum syndarann þola hegningu fyrir synd sína og misgjörðamanninn fyrir misgjörðir sínar. En vertu þessum manni náðugur svo að hann tortímist ekki, þitt hjarta hneigist að honum svo að hann frelsist. En í stað þess að steypa öðru flóði yfir jörðina, þá lát þú koma ljón og hýenur að minka fjölda mannanna; láttu hungursneyð koma til að fækka fólkinu; láttu drepsóttar-guðinn leggja mennina að velli. Ég hefi ekki sagt Hasisadra frá ráðsályktun guðanna. Ég sagði honum að eins draum einn, en hann skildi aðvörunina". Þá gat Bel loksins áttað sig. Hann kom inn í skipið, tók í hönd mér og reisti mig upp; sömuleiðis reisti hann upp konu mína og lagði hönd hennar í hönd mína, blessaði okkur og sagði: "Alt til þessa hefir Hasisadra verið að eins maður, en nú skal hann upphafinn verða ásamt konu sinni, svo að hann verði guðunum jafn. Hann skal búa í fjarlægalandinu við ósa fljótanna". Síðan tók hann mig og flutti mig í landið fjarlæga við ósa fljótanna".

Framhald.

---

# ATHUGASEMDIR

VIÐ FYRIRLESTUR SÉRA N. STEINGRÍMS ÞORLAKSSONAR "UM GUÐDÓM DROTTINS VORS JESÚ KRISTS," Í ALDAMÓTUM 1891.

EFTIR JÓNAS KORTSON, MOUNTAIN, N. D.

Framhald.

Fl. Hann segir ennfremur við lærisveina sína: þér hafið heyrt þetta orð tala þannig, en ég segi ykkur það öðruvísi (Matt. 5,21-22). Með honum kemur guðleg opinberun á æðra stigi. Hann lætur það í ljósi með þessu. Hann hefir því það vald til þess að tala um orðið, sem enginn annar hefir.

Sv. Þetta held ég sé ekki til í guðspjöllunum. En í Matt. 5. 21. er svona: Þér hafið heyrt að það var bannað í fornöld, mann að vega, en ef einhver vægi mann, skyldi hann dómssekur. Þetta er virðingin, sem kyrkjuþingið ber fyrir valdi Krists orða. Og af þessu má sjá, að Jesú, guðdóms-nafn kyrkjunnar, er ábreiða trúleysis hennar og hræsni, sem þarf að hylja svo heilagt sýnist. Ef að kyrkjan elskaði Jesú eins og hún glamrar með nafn hans, þá hefðu hans orð ekki allavega verið umsnúin og flækt innanum ofsavitleysur kærulausra manna, sem biskuparnir voru á Nicea þingi og margra áður og eftir, og sem því ver er alþýðu of ókunnugt.

Fl. Hann segir við hinn limafallssjúka: þínar syndir eru þér fyrirgefnar. Hver hefir leyfi til þess að tala þannig ef hann er að eins maður?

Sv. Skildi fólk eiga að trúa því, að þrenningar prestarnir séu meira en menn, þar sem þeir tvisvar árlega, heimta fólk saman til að fá hjá sér fyrirgefning allra sinna synda, vitanlegra og óafvitanlegra, hrópandi í nafni guðs föðurs, guðs sonar og guðs heilagsanda. En þá er Jesús sá trú hins sjúka, sagði hann: "Vertu hughraustur, sonur, þínar syndir eru þér fyrirgefnar". Jesús fyrirgaf honum ekki syndirnanar, hvorki í sínu nafni né guðs. Hann sá vilja og löngun hins veik, að hann þyrfti ekki að líða þetta fyrir syndir sínar. Því það hefir fylgt biblíutrúnni, að öli veiki stæði af syndinni. Því fylgdi hverri veiki hjá Gyðingum meiri og minni ímyndunarveiki. Og af orðum Jesú getur maður ráðið í, að það hafi verið mest ímyndunarveiki, sem gekk að manninum og hafi honum því svo fljótt batnað af trú á Jesú orð. En ég veit að þrenningar prestarnir verða á móti þessu, að Jesú verk séu náttúrleg. Nei, það hjálpar ekki að láta þá sjá slíkt né heyra. Þeir vilja eng-

an náttúrlegan guð; þeirra guð þarf að vera ónáttúrlegur til þess að sé nokkurt gagn í honum.

Fl. "Þegar hann sendi hina 12 lærisveina sína á stað til þess að kunngjöra nálægð guðsríkis, þá sagði hann við þá: læknið sjúka, lífgið dauða, hreinsið líkþráa, rekið djöfla út (Matt. 10.). Þegar hann talar þannig, er það þá ekki ljóst, að hann var sér þess meðvitandi, hvílíkt undra vald hann hafði.

Sv. Já látum hann hafa sagt þetta. En þarf þá mikið vald til að tala annað eins? Það sést hvergi, að þeir hafi gjört nokkuð af þessu. Það hefði verið betra af fyrirl. að tína fram eitthvað af því, sem þeir gerðu, en býsnast yfir orðum einum. Því að guðspjöllin sýna, að þeir gátu ekki læknað tunglmeina-geitina úr höfði piltsins. Það er alt sem þau geta um afreksverk lærisveinanna.

Fl. "Hann segist líka hafa alt í sínu valdi (Matt. 11.), þess vegna segir hann við son ekkjunnar í Nain, sem lá dauður á líkbörunum: Ég býð þér, þú ungi maður, að þú rísir upp. Og ég gef mínum sauðum eilíft líf. Og ég fer burt að tilbúa yður stað. Hvílíkt "ég" er það sem hér talar".

Sv. Herra trúr! Þetta hvílíka "ég" segir hjá Jóh. 17.: "Faðir, ég vil að þeir, sem þú gafst mér, séu hjá mér þar sem ég er, svo að þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mér; því þú elskaðir mig fyr en veröldin var grundvölluð". Hvað er nú orðið af hinu hvílíka "ég"? Hvað er orðið af öllu valdinu á himni og jörðu? Og hver heilvita maður mun geta trúað því, að þessi geti skipað dauðum að rísa upp og lifa, beint á móti náttúrulögmálinu? Eins og hann hefði sagt í veðrinu á vatninu: Ég segi þér vatn, báraðu þig ekki þó vindurinn blási um þig (Matt. 20.). Að sitja mér til hægri og vinstri handar, er ekki mitt að veita nema þeim, er faðir minn hefir það fyrirhugað". Og í Jóh. 5.: Ég megna ekkert að gjöra af sjálfum mér; ég dæmi, eins og ég heyri, og minn dómur er réttvís, því ég leita ekki míns vilja, heldur vilja föðursins, sem sendi mig". Er þetta ekki nægilegt svar?

Fl. Hann segir við lærisveina sína: það sem þér bindið og leysið á jörðu, skal á himni bundið og leist verða. Hann veit að hann hefir vald til þess að segja annað eins, sem væri guðlast í munni allra annara!"

Sv. Margt verður guðlastið fyrir hinum heilögu kyrkjuþingum Vestur-Íslendinga. En er þá ekki guðlast að segja guð búi á engu? Því að prestar nú, eru það þekkingar meiri Jesú, að vita það, að: enginn himinn er til, sem tjald yfir jörðinni, heldur takmarkalaus geimur, sem enginn getur sagt hvað sé upp eða niður í,

né áttir. Þar Jesús þekti ekki lögun jarðarinnar, sem hann stóð á, og gat ekki greint snúning hennar og gang kringum sólina. Má geta nærri, hvað hann hefir vitað um hinn ósýnilega guð, sem hann var að boða. Hann einungis hafði eftir hinum gömlu guðs hugmyndina og gylti hana með nýrri hugmyndum, líklega frá sér og öðrum en að því er séð verður alt í góðum tilgangi.

Fl. "Og hvar sem tveir eða þrír eru saman komnir í mínu nafni, þar vil ég vera mitt á meðal þeirra (Matt. 18.). Þessu leyfir hann sér að lofa öllum sínum lærisveinum um allan heim. Má nokkur maður tala þannig? Nei: og það gjörði heldur enginn nema hann væri viti sínu fjær".

Sv. Hann yrði þá í æði mörgum pörtum. En hver heilvita maður sér, að Jesús hefir ekki talað þetta. Og það er satt að það ge.ði enginn nema hann væri brjálaður. En að brjálsemi sýni nokkra veru í guðsmynd, get ég ekki trúað. Því sýnist það undra vert, að lærður maður geti ekki gjört greinar mun á guðvísi og brjálsemi.

Fl. "Hann segir um sjálfan sig, að hann hafi hina fullkomnu þekking og enginn maður annar og að hann sjálfur sé svo algjörlega einstök vera, að enginn geti þekt sig nema guð: enginn þekkir soninn nema faðirinn, og enginn föðurinn nema sonurinn og sá sem sonurinn vill það auglýsa. Það væri undarlegt af manni að tala þannig um sjálfan sig; að mönnum fyrir hann sé unt að þekkja guð, og enginn viti hver hann sé nema guð og þeir sem hann auglýsi það (Matt. 16.).

Sv. Seint leiðist prestum að leggja Jesú ljúgandi orð í munn. Það eru hvergi í guðspjöllunum þau orð, að Jesús segist vera algjörlega einstök vera. Og að hann hafi hina alfullkomnu þekkingu. Af þessu má sjá sannleiksást Vestur-Íslenzku prestanna. Og hvað þeir óttast hinn stranga alsherjar dóm, sem þeir seint og snemma ota að söfnuðum sínum og öllum er þeir ná til. En það sem stendur hjá Matteusi af greininni er áður svarað.

Fl. "Hvílík sjálfsmeðvitund kemur fram í þessu, þegar hann segir um sjálfann sig: hér er sá sem meiri er en musterið".

Sv. Eru ekki allir menn meiri húsum, sem þeir byggja? Það er hundurinn, hann er eðlishærri musterum, hann er lifandi og starfandi vera. Hann lærir allan sinn aldur, að sínu leyti eins og musteris prédikari. En hann lýgur aldrei. Hann sver aldrei trúnaðareið, en leggur líf sitt í sölurnar fyrir vin sinn, ef honum sýnist þess við þurfa. En ef hann fylgir vini sínum inn fyrir musteris dyrnar, þá þrýfur siðagætir í hnakkann á honum, og ef hann getur, sendir

honum út í musteris garðinn, en samt bilar ekki trygð hans, heldur skríður hann í skjól við eitthvert leiðið, kúrir svo þar, opt nötrandi af kulda, líka kann ske af hræðslu um vin sinn í þessu miskunarlausa húsi, til að fagna vini sínum ef hann út komi. Og er hann kemur út, stekkur hann til hans með þeim gleðilátum, sem hann hefði heim hann úr helju. Svona er eðli hunda sterk náttúruauglýsing. En musterin eru dauð bygging — andleg verzlunarhús falskra mynda.

Fl. Og hér er sá sem meiri er spámanninum Jónasi og konunginum Salómon (Matt. 12).

Sv. Alveg rétt, Jesús fór t. d. aldrei ofan í hval fyrir óhlýðni við guð, eins og Jónas, og hafði ekki mörg hundruð frillur eins og Salómon.

Fl. "Hann segist koma í dýrð föðursins og með englum sínum þegar hann komi til dómsins."

Sv. Sannlega segi ég yður, að hér eru nú viðstaddir nokkrir, sem ekki munu dauðann smakka fyr en þeir sjá mannsins son koma til ríkis síns, og ennfremur: "Nær þeir ofsækja yður í einni borg þá flýið í hina, og nær þeir ofsækja yður í henni, þá flýið í þá þriðju því sannlega segi eg yður, þér munið ekki hafa lokið umferð yðvarri um allar Ísraelsborgir áður en mannsins sonur kemur."

Mundu ekki orþodoxu klerkarnir hafa brýnt röddina til að grenja móti Darvin, ef önnur eins gífuryrði, vitleysa og lygi hefði staðið í ritum hans. Enn af þessu geta menn séð áreiðanlegleika spádómanna, því Jesús frá Nazaret var þungamiðja allra biblíuspádómanna.

Fl. "Eg tala það sem ég hefi séð hjá mínum föður."

Sv. Og vessið alt: "og þér gjörið það sem þér hafið séð hjá yðar föður." Hver getur sagt að Jesús líki sér við guð með þessu? Því þó hann í sama kapítula segi: "þér eruð af föðurnum fjandanum," þá hefir hann ekki verið sýnilegri en guð, svo ég sé ekki betur en hinn góði Jóhannes jafni saman sjón gyðinga og Jesú. En er það ekki fremur skuggalegt, að þessi þjóðflokkur, sem guð kjöri einan af öllum þjóðflokkum heimsins til að geyma sitt heilaga lögmál, skildu vera af föðurnum fjandanum, enda eru hans vegir annað en mannavegir, öllum órannsakanlegir, en þó hver helvítis elds sekur sem ekki fetar þá.

Fl. "Áður en Abraham var er ég." Hann segir þá berlega, að hann hafi verið til þegar Abraham var ekki til. Einnig með þessum orðum neitar hann for-tilveru annara.

Sv. Já, þetta sýnist sanna það. En 56. vessið sýnir annað.

Það segir: Abraham faðir yðar gladdist af því að hann mundi sjá minn dag, og hann sá hann og gladdist." Ef það er sem mér sýnist að vessin séu ekki samhljóða, er ekki vert að standa í þrætu um slíkt. Því mér sýnist þau eins og sina í gaddi.

Fl Enn fremur: "Ég er útgenginn af föðurnum, og kominn í heiminn og mun aftur yfirgefa heiminn og fara til föðursins."

Sv. Hér sýnir Jóhannes heiminn guðlausann, eftir að Jesús með píslarvættisdauða var búinn að endurleysa hann. Von er þá klerkar kvarti um guðleysi innan kyrkju sem utan, og engin furða þó séra Hallgrímur Pétursson kvæði: "Satan hefir og sama lag | situr hann um mig nótt og dag | hyggjandi að glögt hvar hægast er | Í hættu og synd að koma mér | En þó í þeim stað allra mest | sem ég á guði að þjóna best." Skyldi það ekki hafa verið kyrkjan, staðurinn þar sem séra Hallgrímur þóttist eiga að þjóna guði best? En þar er Satan ákafastur. Þá eru hvorki klerkar né kyrkjur fjandafæla.

Fl. Og í hinni dýrðlegu bæn sem hann biður, sem æðsti prestur, segir hann: gjör mig nú vegsamlegan, faðir, hjá sjálfum þér með þeirri dýrð sem ég hafði hjá þér áður en heimurinn var. Hann hafði stigið niður úr sinni dýrð til þess að geta endurleyst heiminn. Að lausnarverki sínu loknu, biður hann um að fá að komast í þessa dýrð aftur. En þessi dýrð hans er ekkert annað en hans guðlega hátign, sem hann í niðurlæging sinni afneitaði sér um, nema að svo miklu leyti sem lausnarverk hans krafðist þess, svo að þessi dýrð hans brá oft eins og fyrir, og því gátu trúaðir lærisveinar hans sagt: vér sáum hans dýrð, dýrð sem hins eingetna föðursins.

Sv. Von var þó hinn sannleikskæri Magnús Eiríksson kallaði Jáhannesarguðspjall "skækjulærdóm." Það er sólbjartur sannleikur. Og því varð fl. eins og hann nú kemur fyrir. Eða er ekki í síðustu grein hans hér að framan bútaður sundur guðdómur Jesú? Annan partinn fer hann með til að endurleysa heiminn,en hinn skilur hann eftir, líklega þann sem utan á honum var, og því hafi hann getað stigið niður úr honum, smeygt honum fram af sér. Og þess vegna haft alt vald á himni og jörðu. Þá á guð faðirinn að hafa verið valdlaus eftir. Hvað er nú orðið úr hinum gamla guði, föðurnum? Það sýnist nú heldur lítið. Hann sýnist nú eintómt hismi utan af guðdóm Jesú. En því lætur þá guðfræðin Jesú biðja þennan föður og það sem mann? Þá er höf. fyrirlestursins er búinn að þylja langa rollu um Jesú guðdómlegu tilkomu, ekki af eigin uppspuna, heldur það sem hinir sannleiksríku guðspjallamenn hnoðuðu saman um Jesú, þá rekur hann á smiðshöggið með því að kalla það

Jesú orð og verk. En þá voru menn allir að heita mátti þekkingarlausir. Copernicus hugsaði sér að kollvarpa öllum stjörnufræðisvísindum, er hin heilaga ritning kennir oss, að Jósúa hafi skipað sólunni að standa kyrri, en ekki jörðinni. Trúin var dýrkuð þá sem þekkingin nú, og allir skynberandi menn vita hvaða munur er á trú og þekkingu.

Fl. Svo vil ég þá að síðustu færa til þá staði, þar sem Jesús Kristur ber sig saman við guð og setur sig jafnhliða ho um: "Faðirinn starfar til þess nú, og ég starfa einnig."

Sv. Eftir sabbatslögum gyðinga var það rangt að segja manninum læknaða að bera sængina. En Jesús hefir viljað eyða þessum hleypidómi þeirra með því að sýna þeim að guð sjálfur inni alla daga jafnt í náttúrunni.

Fl. Svo segir hann líka: "Sonurinn lífgar þá sem hann vill, eins og faðirinn uppvekur dauða og lífgar."

Sv. Hér eru höfð endaskifti á vessinu og sagt að einn lesi svo biblíuna. En hvað sem því líður, þá er ég líka þeirrar meiningar, að báðir veki dauða jafnt upp, að báðir megi til að hlýða náttúrulögmálinu, hvort þeir þykist guðir eða kristur.

Fl. Hann krefst þess að allir heiðri sig eins og þeir heiðri föður hans.

Sv. Það mun flestum innan handar að lesa vessið til að sjá sannleikann. Því ég sé enga kröfu í því, heldur það, að hver sem virði einn sendiboða, hann virði þann sem sendi hann, og á þessu vildi Jesú byggja virðingu gyðinga fyrir guði, hvernig þeir tækju honum sem sendiboða guðs. En þrenningarprestarnir hafa gert úr því kröfu til að tigna Krist sem guð föðurinn.

---

## TIL KAUPENDA.

Þá er nú loks hálfnaður þessi árgangur Dagsbrúnar. Næsta blað getur að líkindum ekki komið út fyr en um miðjan Ágústmánuð. — Vér viljum nú í öllu bróðerni mælast til þess, að allir þeir sem eiga hægt með vildu senda oss nú þegar andvirði blaðsins. Þér skuldið oss og þar af leiðandi skuldum vér öðrum. Skal nú "heitið á hurðir Flosa," að útsölumenn og aðrir velunnarar Dagsbrúnar sýni nú rögg af sér og hjálpi oss úr kröggunum Munið að "margt smátt gerir eitt stórt."

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: Magnús J. Skaptason.
686 Alexander Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður: Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.